Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

39. tölublað. | þriðjudaginn 17. október 1978 | 7. árgangur | verð kr. 100.-



# Eflum SHA enn!

Nú þegar næsta landsráðstefna Samtaka herstöðvaandstæðinga stendur fyrir dyrum, er vert að íhuga hver verði aðalmál þessarar ráðstefnu og um hvað baráttan hafi snúist á undanförnum þingum.

Á fyrstu landsráðstefnunni, sem haldin var í Stapa ´75, var ágreiningurinn helst um tvennt. Áttu SHA að berjast gegn bæði hernum og NATO, eða bara gegn hernum og áttu SHA að vera baráttuhreyfing fjöldans, eða aðeins kosningaapparat? Í fyrra atriðinu var mikil leit gerð að herstöðvaandstæðingi sem ekki væri jafnframt NATO-andstæðingur. Voru nokkrir menn þar tilnefndir, en þeir komu allir upp og báru slíkt af sér og töldu að herinn og NATO væru greinar af sama meiði. Öll þekkjum við svo hvaða afstaða var tekin. Hitt ágreiningsefnið hefur reyndar alla tíð verið til umræðu. Á fyrstu ráðstefnunni var lögð fram tillaga, þar sem sagði m.a. um verkefnin framundan: "...verði unnið að áætlun um brottför hersins og höfð um það náin samráð við alla þá pólitísku aðila sem að því vilja vinna, þannig að fyrir liggi samstaða um fyrstu skrefin að þessu marki, þegar herstöðvaandstæðingar fá í næsta sinn sterka aðstöðu í ríkisstjórn". Sá hluti sem hér er undirstrikaður olli miklum deilum og var síðan felldur út. Við getum rétt ímyndað okkur hvert starf SHA væri, ef þessi stefna hefði náð fram. Þá væru SHA nú loks búin að ná því markmiðu sínu að koma herstöðvaandstæðingum í þessa ríkisstjórn og við sjáum nú hver sigur það er!

ALÞÝÐUBANDALAGIÐ Í RÍKISSTJÓRN

Sú afstaða sem Alþýðubandalagið tekur kemur óhjákvæmilega til með að hafa áhrif á SHA, því fjöldi herstöðvaandstæðinga er jafnframt í Alþýðubandalaginu. Á þessari ráðstefnu þurfum við því að varast að lýsa stuðningi við undanbrögð ríkisstjórnarinnar í hermálinu, eins og þegar reynt var að fá stuðning við "fataskiptalausnina" ´74. Nú eru sýndartilburðir ríkisstjórnarinnar "friðlýsing" hafsvæða og "einangrun" herstöðvarinnar. Hvorug þessi aðgerð styður markmið SHA að herinn hverfi úr landi og Ísland úr NATO.

Barátta gegn erlendum ítökum, bæði einstakra ríkja og fjölþjóðaauðhringa, er sjálfsagður þáttur í stefnu og starfi SHA. En þessi barátta má ekki einangra við andstöðu við verksmiðju hér eða erlent lán þar heldur verða SHA að tengja hana beint við markmið sitt, að herinn hverfi af landi og Ísland úr NATO. Til þess að vinna að andstöðu við NATO er nauðsynlegt að skýra hvert hlutverk þessa er og þá auðvitað tengsl þess við auðvaldið. Þannig verða SHA að leggja aukna áherslu á afhjúpun heimsvaldastefnunnar og að NATO sem hernaðarbandalag auðvaldsríkja sé ásamt bandaríska hernum andstætt hagsmunum íslenskrar alþýðu.

EINING M-LISTA

Andstaðan við drottnunarstefnu Sovétríkjanna hefur vaxið mjög og hana þarf að efla og skipuleggja. Til þess að svo megi verða, þurfa marx-lenínistar sem hafa verið í fararbroddi þessarar andstöðu, að vera samstíga í aðgerðum sínum og koma ekki þvert á hvor annars áform og eyðileggja þannig fyrir sameiginlegum málstað. Það þjónar engum tilgangi að berja sér á brjóst yfir því að hafa ætíð staðið fyrir hinum eina sanna málstað og aldrei gert nein hrossakaup. Meira er um vert að hafa náð einhverju því fram, sem færir baráttuna fram á við og eflir hana, þótt ekki hafi allt það rétta fengist fram í einu. Við eigum við öflugri andstæðing að etja en svo, að við getum sigrast á honum án þess að gera nokkurn tíma málamiðlanir og bandalag við aðra. Til þess að ná árangri í afhjúpun á heimsvaldastefnu Sovétríkjanna, þurfa m-listar að standa saman. Að setja það fyrir sig sem "prinsipp" að af samstarfi geti ekki orðið hér, fyrr en KFÍm-l hafi gert upp við starf og stefnu KSML, er að vinna skemmdarverk á baráttunni gegn sósíalheimsvaldastefnunni og þjónar henni einni.

STÖÐUGT STARF ER NAUÐSYN.

Stöðugt starf og virkni fjöldans er forsenda þess að árangur náist. Það hefur sýnt sig að það stoðar ekki að treysta á þinglið, heldur er það barátta fólksins sjálfs sem færir því sigur. SHA verða því að leggja mikla áherslu á að koma upp virkum starfshópum, bæði í Reykjavík og út um land.

Samtök herstöðvaandstæðinga verða að berjast gegn allri heimsvaldastefnu, gegn vígbúnaði risaveldanna og fyrir varðveislu heimsfriðar. Þau

Framhald á síðu 3




Aðgerðir herstöðvaandstæðinga hafa alla tíð verið velheppnaðar og fjölmennar.

# 36. þing INSÍ

Um næstu helgi, verður haldið 36. þing INSÍ að Hótel Esju. Margir málaflokkar liggja fyrir þinginu, má þar m.a. nefna ályktun um iðnfræðslu, kjaramál, félagsmál og þjóðmál. Það sem er sammerkt með flestum þessum ályktunum er að forysta Iðnemasambandsins reynir að koma þar að stéttasamvinnustefnu sinni. Þegar seinasta þing var haldið fyrir ári síðan var hægri stjórn við völd og miðuðust tillögurnar mikið við það. Lýst var vanþóknun sinni á ríkisvaldi auðvaldsins og fleira í þeim dúr. Vafalítið verður annað upp á teningnum, núna reyna þeir að koma því inn í tillögurnar að við völd sé ríkisstjórn verkalýðsins og því beri að fagna.

En er þetta ríkisstjórn verkalýðsins? Nei m.a. var hennar fyrsta verk að svíkja gerða samninga verkalýðsfélaganna. Hún stefnir að því að lengja samningstímabilið um eitt ár og komi ekki neinar grunnkaupshækkanir til framkvæmda á því tímabili. Hún ætlar að stórauka skattaálögur á almenningi.

Mikil barátta mun eiga sér stað á þinginu milli baráttusinna og þeirra sem vilja ganga erinda ASÍ-forystunnar innan Iðnemasambandsins. Greinilegt er á viðtölum við þessa menn að þeir eru skíthræddir við þá andstöðu sem þeir koma til með að verða vitni að á þinginu. Hafa þeir sett það inn í eina ályktunina að fordæma beri öll klofningsöfl innan verkalýðshreyfingarinnar. Þeir kalla sem sagt alla þá sem vilja taka upp virka baráttu gegn stéttasamvinnustefnunni klofningsöfl. En það eru þeir sem eru klofnings og skemmdar-

Framhald á síðu 2

# Landsráðstefna herstöðva andstæðinga

## 21. og 22. okt.

Landsráðstefna Samtaka herstöðvaandstæðinga verður haldin í Sigtúni í Reykjavík dagana 21. og 22. október ´78. Dagskrá ráðstefnunnar verður sem hér segir:

Laugardagur 21. okt. ´78.

Ráðstefnan hefst kl. 13.30 stundvíslega.

1. Setning.
2. Kosning starfsmanna.
3. Skýrsla miðnefndar.
4. Almenn umræða.

Kaffihlé.

5. Starf og stefna á komandi ári
a) starfsáætlun SHA
b) útgáfumál
c) baráttuleiðir
d) lagabreytingar.
6. Almenn umræða.

Sunnudagur 22. okt. ´78

7. Starfshopar kl. 10 f.h.
a) starfsáætlun um útgáfumál
b) lagabreytingar
c) baráttuleiðir

Matarhlé.

Fundur hefst kl. 14.00 stundvíslega

8. Niðurstöður starfshópa a, b og c
9. Tillaga uppstillingarnefndar.

Kaffihlé

10. Almenn umræða
11. Afgreiðsla samþykkta og ályktana.
12. Kosning miðnefndar.

Ráðstefnunni slitið.



**LEIÐARI**

# Landsráðstefna SHA

Landsráðstefna Samtaka herstöðvaandstæðinga verður haldin dagana 21. og 22. október. Á þessari ráðstefnu ráða herstöðvaandstæðingar málum sínum við núverandi ástand, ástand sem ekki gefur baráttu samtakanna byr í seglin.
Helsta umræðuefnið á þessari ráðstefnu verður sjálfsagt hvernig glæða megi baráttuna nýju lífi. En langtíma stefnumál verða eflaust einnig ofarlega á baugi eins og ævinlega, á þessari ráðstefnu, sem þeim fyrri.

Ekki eru menn á einu máli um hver séu helstu verkefnin og nú fyrir ráðstefnuna hafa, enn á ný komið upp þær raddir sem breyta vilja samtökum herstöðvaandstæðinga í samtök sem hafi allt og ekkert á stefnuskrá sinni. Það á ekki lengur að leggja alla áherslu á baráttuna gegn hernaðarumsvifum risaveldanna og hernaðarbandalögum þeirra Stefna þeirra sem draga vilja broddinn úr pólitík samtakanna minnir í flestu á flatneskjulega pólitík ríkisstjórnarinnar. Það skildi engan undra að þessar raddir skuli ná inn í raðir samtaka herstöðvaandstæðinga. Tengsl samtakanna eru mjög sterk við þá pólitísku flokka sem sömdu um það í málefnasamningi sínum að Ísland skyldi v era áfram í NATO og herinn yrði um kyrrt.

Stuðningsfólk þessarar stefnu hefur nú hugsað sér að koma henni í gagnið innan Samtaka herstöðvaandstæðinga á örlítið róttækara formi. Herstöðvaandstæðingar verða að koma í veg fyrir að þessum röddum verði á nokkurn hátt veittur stuðningur á Landsráðstefnunni. Þvert á móti verði lögð öll áhersla á brottför hersins og úrsögn Íslands úr NATO eins og hingað til. Ráðstefnan verður einnig að mótmæla harðlega þeim undanslætti sem fram kemur í málefnasamningi ríkisstjórnarinnar sem andstæðu starfi og stefnu samtakanna.
Þessi undansláttur er ekki aðeins sala á sjálfsákvörðunarrétti þjóðarinnar heldur einnig óbeinn stuðningur við heimsvalda-og drottnunarstefnu risaveldanna, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna. Slíkt geta samtök, sem berjast fyrir sjálfstæði þjóða og gegn hernaðarste fnu risaveldanna, ekki þolað. Þetta er bein svik við hagsmuni alþýðu heimsins og baráttu hennar gegn stríðsundirbúningi risaveldanna. Á Landsráðstefnunni verður þvert á móti að marka skýra og afdráttarlausa stefnu í baráttunni gegn hernaðarumsvifum risaveldanna beggja. Landsráðstefnan verður að slá því föstu að baráttan gegn veru hersins og fyrir úrsögn Íslands úr NATO sé það mál sem ekkert annað má skyggja á. Þetta er gífurlega mikilvægt, ekki síst vegna þess mikla stríðsundirbúnings sem nú er efst á baugi hjá hernaðarrisunum USA og USSR.

Á þennan hátt leggur íslensk alþýða sitt lóð á vogarskálina fyrir friði í heiminum. Um allan heim verður krafa alþýðuhreyfingarinnar að vera leyfum engar erlendar herstöðvar í löndum okkar
Ef þessi stefna verður ofaná á Landsráðstefnunni 21. og 22. okt. næstkomandi þá eiga Samtök herstöðvaandstæðinga framtíð fyrir sér. Þau munu þá gegna gífurlega mikilvægu hlutverki, bæði í baráttu fyrir óskertu sjálfstæði þjóðarinnar og fyrir friði í heiminum.

# Niðurstöður Camp David fundarins

Niðurstöður Camp David fundarins bera vitni um hættulegasta samsæri gegn aröbum síðan 1948. Þær sýna okkur einnig hvað síonistar og bandarísku heimsvaldasinnarnir hafa verið að reyna að ná fram og þeim hefur nú verið boðið upp á af Sadat., Sadat hefur gengið að öllum skilyrðum þeirra sem miðast að því að eyða og einangra palestínsku þjóðinni og eyðileggja málstað araba.
Niðurstöður Camp David fundarins bera með sér viðurkenningu Sadats á hernámi síonista í Palestínu, Golan hæðunum og hluta af Sinai. Niðurstöðurnar sýna einnig samþykki Sadats á markmiði síonista, að sniðganga þjóðlegan rétt palestínumanna. Samkomulagið er síðasta skrefið í landsölupólitík Sadats, sem varpar fyrir róða þjóðlegri reisn egypta sem og hluta af egypsku landi og leyfir þar verði dreginn að húni fáni síonismans. Samkomulagið er einnig vanvirðing á þeim fórnum sem egypska þjóðin og egypski herinn hafa fært í baráttunni gegn útþenslustefnu síonismans. Samkomulagið er þess vegna tilræði við egypsku þjóðina og framtið hennar.
Óráðshjal Sadats um sjálfstjórnarsvæði palestínumanna á Vesturbakkanum og Gazasvæðinu er innantómt rugl og Camp David samkomulagið erí raun viðurkenning á nýlendustefnu Ísraels og innlimun þessara svæða í ríki síonista.

Afstaða arabaþjóðanna.

Frelsissamtök palestínumanna PLO hafa að sjálfsögðu fordæmt Camp David samkomulagið sem svívirðileg svik og samsæri gegn réttindum palestínuaraba og málstað allra arabaþjóðanna. Í ritstjórnargrein í Falestin Al Thawra, sem er aðalmálgagn PLO, er lögð áhersla á að egypska þjóðin sé ein megin stoðin undir samstöðu araba og að landsölusamningar Sadats séu verk fávíss einræðisherra sem ekki sé fulltrúi neins annars en hrörnandi borgarastéttar sem hafi svikið egypska hagsmuni og gert Egyptaland að tæki í höndum heimsvaldastefnunnar. PLO og leiðtogi þeirra Yassir Arafat hafa skorað á egypsku þjóðina og egypska herinn að taka málin í eigin hendur ef ekki á að leiða til óbætanlegs tjóns fyrir egypta og hagsmuni þeirra.
Tilgangur Camp David samkomulagsins er að brjóta niður samstöðu arabaríkjanna og ganga fyrir fullt og allt að frelsissamtökum palestínumanna dauðum. En til þess að þetta megi takast er ekki nóg að hafasamkomulagið undirritað af egyptum einum arabaþjóðanna. Þess vegna reynir þríhöfðaði þursinn frá Camp David nú að fá fleiri arabaríki til að samþykkja samkomulagið sem grundvöll fyrir lausn deilunnar fyrir botni miðjarðarhafsins. Í þessu sambandi er lögð sérstök áhersla á að fá til fylgis við samkomulagið Jórdani, Sýrlendinga og Saudi-araba. Önnur arabaríki s.s. Alsír Lýbía, Írak, Kuwait og Suður-Jemen eru ekki talin líkleg til að undirrita slíkt plagg, sem Camp David samkomulagið er.
Ritstjóri Wafa, fréttastofu PLO, fjallaði fyrir stuttu um Camp David samkomulagið og þær afleiðingar sem það hefur haft og gæti komið til með að hafa í framtíðinni. Þar segir hann m.a. "Höfuð palestínsku byltingarinnar mun verða aðalmark Carter-Begin-Sadats áætlunarinnar". Bandalag arabaríkjanna (frá því á TRÍPÓLÍ fundinum) ætti að taka með í reikninginn möguleikanna á frekari hernaðarlegum og pólitískum árásum í PLO, sem gætu leitt til útrýmingar stríðs gegn palestínskum flóttamönnum og skæruliðum". "Afstaða sýrlendinga mun einnig verða aðal skotmark Camp David flokkanna sem munu reyna að fá sýrlendinga til að hverfa frá samstöðu araba og taka upp uppgjafarstefnuna sem svikarinn Anvar Sadat er fulltrúi fyrir. Bandalag arabaríkjanna ætti einnig að taka með í reikninginn frekara framhald þess pólitíska taugastríðs sem háð er gegn sýrlensku herjunum í Líbanon og hafa það að markmiði að veikja sýrlenska herinn. Ísrael gæti hugsanlega stutt þetta gegn um ákveðnar hreyfingar í hinum hernumdu Gólan-hæðum, í þeim tilgangi að veikja styrk og staðfestu sýrlendinga".
Það ætti að vera augljóst að Hussein bíður eftir því hlutverki sem honum er ætlað, vitandi það að honum mun verða boðinn Vestur-bakkinn í samræmi við áætlanir Ísraels og Bandaríkjamanna. Konungurinn sem beðið hefur átekta svo lengi, mun ekki láta það angra sig að bíða svolítið lengur, sérstaklega þar sem Sadat hefur leyst hann frá skítverkunum, með því að taka þau á sig sjálfur".
Það er ljóst að Camp David-samkomulagið er svik við málstað araba. Eina leiðin fyrir þá til að standast þá árás sem nú er í aðsigi, er að efla samstöðu sína og láta ekki sundrungarstarf Sadats og heimsvaldasinna hafa áhrif á bandalag sitt.



Yassir Arafat leiðtogi PLO. Hann hefur verið skeleggur baráttumaður frelsis og sjálfstæðis. Fyrir það er hann hataður af heimsvaldasinnum og síonistum. Allir andheimsvaldasinnar virða hann fyrir framlag hans til baráttunnar

36. þing INSÍ

Framhald af forsíðu

verka aflið innan hreyfingarinnar þeirra afstaða er til þess eins fallin að draga úr baráttu iðnema og alls verkalýðsins. Allir þeir sem vilja taka upp baráttu gegn þessari stefnu verða að skipuleggja sig og koma sameinaðir fram á þinginu, þannig er mögulegt að berjast gegn áhrifum þessara manna.



**HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L**

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 16:00 - 18:30.

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

HORNAFJÖRÐUR
Margrét Einarsdóttir
Silfurbraut 2

SVÍÞJÓÐ
Kristján L. Guðlaugsson
Kämnärsvägen 11 N:220
222 46 LUND

# Guðir í geimferð

**Dufþakur**

Amerískir kvikmyndaframleiðendur eru einkar natnir við að finna upp á einhverjum nýjungum til að græða á. Fyrir fáeinum árum voru svonefndar stórslysamyndir einkar vinsælar. Nokkrar þeirra bárust hingað til lands, s.s. Poseidon-slysið, Jarðskjálftinn og Hákarlinn. En menn verða þreyttir á þessum slysafaraldri á hvíta tjaldinu eins og öðru og því er gripið til þess ráðs að finna upp eitthvað "nýtt", sem fær áhorfendur til að gleyma hversdagslegum önnum um stundarsakir og kvikmyndaframleiðendur hagnast á

Nýjasta nýtt á þessu sviði eru geimferðamyndir eða svokallaður vísindaskáldskapur, myndir um verur utan úr geimnum, sem koma til að heilsa upp á jarðarbúa. Ein slík er nú sýnd í Stjörnubíói og ætlar að slá öll met út í aðsókn. Þetta er Close encounters of the third kind, en önnur fræg mynd í þessum dúr er Star Wars, sem vafalaust á eftir að sjást hér áður en langt um líður.

Auðvitað hafa geimmyndir oft sést áður á hvíta tjaldinu; það sem er þó sérstakt við Close encounters er að í fyrsta lagi er kvikmyndatæknin orðin það háþróuð, að maður tekur ekki eftir neinum misfellum á því sviði og í öðru lagi eru þessar verur utan úr geimnum sýndar sem eins konar trúarlegt fyrirbæri. Þetta minnir eiginlega á "kenningar" "vísindamanns" nokkurs frá Þýskalandi, sem vildi "sanna", að guðirnir hefðu verið geimfarar og ritaði um það bók, er hét Voru guðirnir geimfarar? og þýdd hefur verið á íslenska tungu. Það má því segja, að Close encounters sé geimvísindamynd með trúarlegu ívafi.

Það þarf varla að taka það fram, að geimverur þessar ákveða stefnumót sitt við jarðarbúa í Guðs eigin landi. Nokkrir þegnar þess ríkis fá einhvers konar vitrun, er verur þessar nálgast jörðina í sínum fljúgandi furðuhlutum; þ.á.m. er aðalsöguhetjan (leikinn af Richard Dreyfuss). Hann verður svo heillaður af þessu fyrirbæri, að hann stefnir fjölskyldulífinu í voða með alls kyns undarlegum uppátækjum. Sí og æ tönglast hann á því, að hér sé eitthvað merkilegt á seyði, að heimsókn þessara furðuvera af geimnum ofan hafi einhverja þýðingu.

Vísindamenn á jörðu niðri komast í samband við þessar dularfullu verur eftir ákveðnu merkjamáli og hið eiginlega stefnumót við jarðarbúa er ákveðið á eyðilegum stað í Wyoming-fylki undir sérkennilegum fjallshnjúk, sem heitir Djöflaturninn. Þangað flykkjast vísindamennirnir á leynifund með geimverunum. Richard Dreyfuss og nokkrir aðrir, sem fengið hafa vitrun, slást í hópinn sem eins konar boðflennur.

Á þessum stað nær myndin trúarlegu hámarki, þegar geimverurnar birtast jarðarbúum í eigin persónu og hafa söguhetjuna á brott með sér, uppljómaða af eilífri sælu, á meðan áhorfendur stara í forundrun á það sem fram fer. Svei mér þá, ef þetta minnir ekki á upprisu Krists. Og kannski ber að leggja einmitt þann skilning í lokaatriði myndarinnar: upprisa Krists útfærð í vísindalega háþróaðan búning. Við slíka uppákomu fer best á því að bæta við hinni klassísku upphrópun: halelúja.

Það má svo sem vel vera, að einhverjir uppljómist við skoðun slíkrar kvikmyndar, líkt og söguhetjan í myndinni, en vinsældir hennar liggja tæplega í gæðunum, ef frá eru taldar næsta óaðfinnanlegar tæknibrellur. Nei, ætli magnað auglýsingaskrum eigi ekki sinn þátt í löngum biðröðum fyrir utan Stjörnubíó þessa dagana.

... í Stuttu máli

18 ÁRA KOSNINGARALDUR

Nokkrir Alþýðuflokksþingmenn eru í þann veginn að unga út frumvarpi á alþingi um að kosningarréttur verði færður niður í 18 ár. Einu sinni áður hefur slíkt frumvarp verið borið fram, fyrir 13 árum, en var fellt.

Um það þarf ekki að deila að 18 ára kosningaaldur á fullan rétt á sér. Það er ekkert sem rökstyður það að fólk milli 18 ára og tvítugs fái ekki að kjósa.

18 ára kosningaraldur er þegar orðinn algengur í Evrópu. Fyrsta ríkið til að taka hann upp voru Sovétríkin. Það var árið 1938 þegar ný stjórnarskrá var gerð. Þetta gæti verið holl lexía fyrir þá sem álíta að sósíalisminn sé andstæður lýðræði.

Undir forystu Jósefs Stalíns voru Sovétríkin fyrsta ríki heims til að færa kosningaaldur niður í 18 ár.

# Fangelsi í Kína

*Annar hluti*

Menntun fanga.

Endurmenntun fanganna.

Liður í endurhæfingu afbrotamanna í Kína er eins og áður sagði endurmenntun.

Hún er fólgin í alhliða fræðslu og bóklestri. Fangar taka þátt í pólitískum deilum í Kína á hverjum tíma. Þeim er veitt fræðsla um heimsástandið og um ástandið innan Kína og innan kommúnistaflokksins. Þannig sér fanginn sjálfan sig og framtíð sína í nýju ljósi. Hann tengir sjálfan sig heildinni og það þróast með honum ábyrgðartilfinning. Fangar tóku t.a.m. þátt í gagnrýnisherferðinni gegn fjórmenningunum. Einnig er lögð áhersla á gott siðferði og góða hegðun, Auk þessa eru fangarnir hvattir til lesturs og sjálfsnáms.

Annarskonar aðferðum er einnig beitt. Fyrirmyndarverkamenn eru fengnir í heimsókn til að miðla af reynslu sinni við að þjóna heildinni. Ættingjar eru hvattir til að skrifa föngum bréf og reyna á allan hátt að hafa áhrif á þá til betri vegar.

Ástæður afbrotanna er oftast neitun á vinnu og þar af leiðandi vilji til að lifa á vinnu annarra.

Refsing og umbun.

Í kínversku fangelsi ríkir kerfi refsingar og umbunar. Fylgst er vel með hegðun fangans. Góðri hegðun fylgir hvatning. Fanginn er t.d. gerður að fyrirmynd, oftast í þeirri mynd að hegðun hans er skráð öðrum til eftirbreytni. (Í fangelsinu eru töflur sem koma í stað veggspjalda þar sem fangar og aðrir geta skrifað á). Ef fangi sýnir af sér mjög góða hegðun er möguleiki á að fá dóminum breytt, fangavistina stytta eða náðun. Ef fangi sýnir hinsvegar slæma hegðun þá er hann aðvaraður. Næsta skrefið er að skrá afbrot hans gegn reglunum en þriðja stigið er refsing. Refsingin er yfirleitt fólgin í skertum rétti til heimsókna og bréfaskrifta. Ef fangi fremur alvarlegt afbrot innan fangelsisins er möguleiki að dóminum verði breytt og vistin lengd. Það er þó alltaf sami dómur og dæmdi fangann upphaflega sem breytir dómnum.

Með þessu er reynt að þroska með fanganum sjálfsaga og sjálfstjórn.

Réttur fangans.

Fanginn verður að haga sér á ákveðinn hátt og hann er settur undir aga.

Hinsvegar á fanginn rétt á að litið sé á hann sem venjulegan mann. Hverskyns líkamlegar refsingar eru bannaðar og einnig að móðga fanga á einn eða annan hátt. Fangi á auk þess rétt á góðu fæði og góðum klæðnaði.

Kommúnistaflokkurinn gaf út fyrirmæli um að allir fasistatilburðir í réttarfarinu væru harðlega bannaðir. Þessar reglur eru fanganum gerðar kunnar og ef einhver starfsmaður brýtur á rétti fangans hefur hann rétt til að kæra starfsmanninn.

Dagur fangans skiptist í 8 stunda vinnu, tveggja stunda fræðslu, 8 tíma svefn og hálfrar stundar í útiveru. Fanginn ráðstafar að eigin vild því sem eftir er af deginum.

(Í næsta blaði mun birtast niðurlag greinarinnar um fangelsi í Kína. Þar verður m.a. sagt frá tegundum afbrota og aðbúnaði fangans að fangavist lokinni).

Framhald af forsíðu

EFLUM SHA ENN

þurfa að tengja baráttu sína baráttunni gegn erlendum ítökum og styðja þjóðfrelsisbaráttu um allan heim. Þá þurfa SHA að byggja starf sitt á fjöldavirkni og leggja enn meiri áherslu á hana. Og síðast en ekki síst, hvert skref sem SHA stígur, verður að vera skref í átt að markmiði þeirra: ÍSLAND ÚR NATO - HERINN BURT.

# Virkir eða óvirkir?

Þær tillögur sem liggja fyrir ráðstefnu herstöðvaandstæðinga eru sumar hverjar nokkuð skrautlegar. Þetta stafar líklega af því að ekki hefur alltaf verið vandað til þeirra sem skildi.

Til dæmis liggur fyrir viðamikil tillaga frá Kópavogshópi SHA. Þar er lagt til að lögunum sé breytt hvað varðar hverjir skulu teljast aðilar að samtökunum og skal 3. gr. að lögum samtakanna hljóða samkvæmt tilögunni: "Allir þeir sem aðhyllast þessi markmið, samþykkja stefnuskrá samtakanna og eru reiðubúnir að taka virkan þátt í starfi svo að markmiðinu verði náð, geta orðið félagar í Samtökum herstöðvaandstæðinga, enda vinni þeir á engan hátt gegn málstað samtakanna. Sá er ekki tekur virkan þátt í starfi getur einungis orðið stuðningsmaður. Félagsaðild er einstaklingsbundin." (Það sem er nýtt í tillögunni er undirstrikað). Þetta minnir óneitanlega á stefnuskrá kommúnískra flokka. En eins og þetta er sjálfsagt þar, þá er þetta jafn mikið út í hött í fjöldahreyfingu, þar sem reynt er að virkja alla þá sem styðja markmið hreyfingarinnar.

Það þjónar á engan hátt starfi SHA að útiloka það fólk sem ekki getur tekið þátt í starfinu nema að litlu leyti.

Það sem maður gæti haldið að vefjist fyrir flutningsmönnum er að starfandi félagar í SHA fá stundum litlu ráðið um stefnu samtakanna. Það hefur reyndar nokkuð til síns máls, þó hafa starfshóparnir mikið frelsi til að ráða því starfi sem þeir framkvæma, og hafa leyfi til að senda áheyrnarfulltrúa á fundi miðnefndar. En þetta frelsi starfandi félaga er ekki það sem stefnt er að í þessari tillögu og segir til dæmis í breytingartillögu hópsins við 8.gr.: "Miðnefnd sér um að gerð sé stefnuskrá allra starfseininga. Að auki skal félögum og hópum úthlutað fáum en mikilvægum sérverkefnum."

Annað er það í þessari tillögu, hvað það yrði flókið að framfylgja þessum lögum. Til dæmis er ekki tekið fram í tillögunni hvað sé starfandi félagi. Í því sambandi mætti taka margar viðmiðanir svo sem: mæta á fjöldafundi, mæta á fundi í starfshópum, ..era út dreifirit, o.s. frv. ... er félagi starfandi? ...um við skóla- k... ...undum SHA þar se. ...erkt er við menn, og mætingaskyldan yrði til dæmis 80%.

Ennfremur er ekki tekið fyrir í tillögunni hver á að skera úr um vafaatriði. Það gæti orðið tilefni til nokkuð harðra deilna, sem ekki efldi styrk samtakanna.

En rúsínan í pylsuendanum er líklega breytingartillaga við 8.gr. Þar stendur: "Þátttaka í starfi þessara starfseininga er einungis heimil félögum." Varla er gert ráð fyrir aukningu á félagatölunni, eftir að það hefur verið ákveðið hverjir skulu verða félagar í eitt skipti fyrir öll.

Sig. I. A.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

**Stéttabaráttan**



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
39. tbl. þriðjudaginn 17. okt. 1978.

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



# Kínverjar erlendis og ofsóknir vietnama

Það hefur ekki farið fram hjá neinum að deila hefur risið á milli kínverja og víetnama vegna kínverskra ríkisborgara búsettra í Víetnam. Unnvörpum hafa þeir flúið land vegna ofsókna víetnamskra stjórnvalda.

Í nýútkomnu fréttabréfi menningardeildar sendiráðs Kína á Íslandi er grein um kínverja erlendis. Eftirfarandi grein er byggð á þeim upplýsingum og í lokin er birt orðrétt úr fréttabréfinu það sem fjallar um deilu kínverja og víetnama.

Nú eru um það bil 10 millj. kínverja búsettir utan Kína í öllum heimsálfum. Þessir fólksflutningar eiga sér langa sögu. Kínverjar tóku snemma að flytja utan en fólksflutningar í stórum stíl hefjast þó ekki fyrr en eftir 1840 þegar heimsvaldaríki réðust inn í Kína og breyttu landinu í hálfnýlendu.

Flestir þessara útflytjenda voru gjaldþrota smábændur, handiðnaðarmenn og fátækir borgarbúar. Sumir flýðu einnig land af pólitískum ástæðum til að forðast grimmd afturhaldssinnanna sem þá stjórnuðu Kína.

Fátæklingar voru gjarnan blekktir með gylliboðum en þeirra beið oft verra hlutskipti en í Kína. Þetta þekkja íslendingar af agentunum sem gylltu fyrir fólki ferðir til Vesturheims skömmu fyrir síðustu aldamót.

Þessir kínverjar tóku þátt í starfi fjöldans á hverjum stað. En eins og þjóðernisminnihlutar í lénskum og kapítalískum löndum voru þeir ofsóttir og þeim mismunað á alla lund. Ofsóknir og fjöldamorð á kínverjum hafa þekkst í vesturhluta Bandaríkjanna og í Rússlandi keisaratímans auk annarra ríkja.

Stór meirihluti kínverja erlendis er vinnandi alþýðufólk. Þeir eru verkamenn, smábændur, handiðnaðarmenn, götusalar o.s.frv. Sumir þeirra reka veitingastaði eða hafa með höndum annan smáatvinnurekstur.

Kínverjar erlendis halda ýmist sínu fyrra ríkisfangi eða öðlast ríkisborgararétt dvalarlandsins af fúsum og frjálsum vilja.

Meira en milljón kínverjar búa í Víetnam. Þeir hafa gegnt miklu hlutverki þar og stutt baráttu og uppbyggingu víetnama.

Kínverskir ríkisborgarar tóku meðal annars þátt í baráttunni gegn frönsku og bandarísku heimsvaldasinnunum. Kínverskir ríkisborgarar tóku einnig þátt í dýpkun fljóts í Saigon, sem nú heitir Ho Chi Min borg. Fyrir þessa aðstoð var fljótið nefnt Kínafljót.

## Afstaða Kína til kínverja erlendis.

Í fréttabréfinu er einnig farið nokkrum orðum um stefnu kínverja gagnvart kínverskum ríkisborgurum erlendis. Hún er sú að styðja þá og hvetja til þess að taka upp ríkisborgararétt dvalarlandsins af fúsum og frjálsum vilja. Þeir sem það gera missa að sjálfsögðu kínversk borgararéttindi. Kínverska ríkisstjórnin er andvíg því að nokkur sé neyddur til að hafa ákveðið ríkisfang. Kínverska ríkisstjórnin hvetur hina, sem vilja halda kínversku ríkisfangi til að halda í heiðri siði, venjur og lög dvalarlandins og lifa í sátt við viðkomandi þjóð. Ríkisstjórnin er aftur á móti skuldbundin til að vernda rétt þeirra og hagsmuni og væntir þess að viðkomandi lönd geri slíkt hið sama.

## Kínverjar búsettir í Víetnam.

(Eftirfarandi hluti þessarar greinar er orðrétt tekinn upp úr fréttabréfinu. Millifyrirsagnir er Stéttabaráttunnar).



Frelsisher Kambódíumanna

Kommúnistaflokkur Kína og Verkamannaflokkur Víetnam komust árið 1955 að samkomulagi eftir að hafa skipst á skoðunum um hríð. Samkomulag þetta varðaði meginreglur um meðferð málefna kínverskra ríkisborgara sem dvelja í Víetnam. Aðilarnir tveir lýstu því yfir að kínverskir íbúar í norðurhluta Víetnams gætu smám saman orðið borgarar Víetnams af eigin vilja svo fremi að þeir nytu jafnréttis á við víetnama og hefðu fengið hugmyndafræðilega menntun. Hvað varðar málefni kínverskra íbúa í suðurhluta Víetnams þá skyldu þau leyst með viðræðum landanna tveggja eftir frelsun suðurhlutans. Þetta samkomulag sýnir einlæga ósk kínverskra aðila um að efla bróðurlega vináttu milli þjóðanna í Kína og Víetnam. Það sýnir einnig að Kína studdi á virkan hátt og bar fullkomið traust til víetnamskra stjórnvalda.

Með samvinnu þjóðanna tveggja var samkomulaginu framfylgt í öllum meginatriðum um langan tíma.

## Víetnamar snúa við blaðinu.

En svo kom að því eftir frelsun allrar þjóðarinnar að víetnömsk stjórnvöld gerðu heyrinkunna ákvörðun nokkra til að mæta þörfum sinnar eigin stefnu inn á við og út á við. Sú ákvörðun var tekin í febrúar 1976. Þar er svo kveðið á um að allir kínverskir íbúar í suðurhluta Víetnams skuli neyddir til að skrá sig samkvæmt þeim ríkisborgararétti sem þeir höfðu verið ólöglega færðir undir á valdatíma Ngo Dinh Diems. Víetnömsk stjórnvöld hófu að hundelta þá og ofsækja. Hvað varðar íbúa norðurhluta Víetnams þá hættu víetnamar að virða ákvæðið úr samkomulaginu frá 1955 um að kínverskir íbúar skyldu njóta sama réttar og bera sömu skyldur og víetnamskir borgarar. Þess í stað hófu þeir að mismuna þeim, útiloka þá og ofsækja. Margir voru sviptir réttinum til vinnu og menntunar, voru reknir úr starfi án réttmætra ástæðna, dvalarheimild þeirra var felld niður, matarskammtar til þeirra stöðvaðar.



Víetnamskir hermenn að grýta kínverska flóttamenn. margir kínverjar hafa bæði fallið og hlotið mikil sár

## Viðbrögð kínverja og hert afstaða víetnama.

Kína hefur allar stundir sýnt ítrasta þolgæði gagnvart þessum aðgerðum víetnama. Hvað eftir annað hefur Kína reynt að fá víetnama til að láta af slíkum aðgerðum og sent sendinefndir til að ræða við víetnama.

Þessar tilraunir kínverja leiddu ekki til neinna viðbragða af hálfu víetnama.

Snemma árs 1977 hófu víetnamar að reka á skipulegan hátt úr landi til Kína ýmsa hópa kínverja og íbúa á landamærasvæðunum sem flust höfðu löngu áður til Víetnam.

Í apríl á þessu ári hertu víetnamar enn meira ofsóknir sínar á hendur kínverskum íbúum. Brottvísun kínverja færðist nú í aukana. Snemma í ágúst höfðu samtals 160 þús. kínverjar verið reknir frá Víetnam. Það neyddi Kína til að grípa til neyðarráðstafana. Það varð að yfirvinna fjölmarga erfiðleika til að hægt væri að sjá þessu fólki fyrir nægri matvöru, klæði og húsnæði.

Ástæðan fyrir því að deila Kína og Víetnams varðandi málefni kínverskra íbúa hefur dýpkað er eingöngu sú staðreynd að eftir frelsun alls Víetnams sneru víetnamar sér frá samkomulaginu frá 1955 og breyttu stefnunni varðandi kínverska ríkisborgara í Víetnam.

## Kína reynir samkomulagsleið.

Til að ná mætti samkomulagi um málefni kínverskra ríkisborgara í Víetnam stakk Kína upp á samkomulagsviðræðum milli aðstoðarráðherra ríkjanna tveggja. Þær hófust í Hanoi 8. ágúst 1978. Í ræðu sinni á fyrsta fundinum sagði formælandi kínversku sendinefndarinnar, Tsjúng Hsítúng, meðal annars: Leiðir til að loka gjánni hljóta að finnast fyrst hún er sýnileg. Það hlýtur að vera hægt að binda endi á deiluna fyrst hún hófst. Það eru hagsmunir Kína og það eru hagsmunir Víetnams. Það er þóknanlegt alþýðu heimsins. Við erum komnir til Hanoi til að halda uppi vináttu milli þjóða okkar og til að finna leiðir til að binda endi á misklíðina.



Vietnamar fagna sigri yfir bandarísku heimsvaldasinnunum. Þeir munu einnig sigra sovésku heimsvaldasinnana.

## Hlutur Sovétríkjanna.

Sovétríkin æsa og styðja Víetnam til að ofsækja kínverska íbúa og reka þá burt. (Sovésk ítök í Víetnam sjást meðal annars á því að Víetnam hefur gengið í efnahagsbandalag sovétmanna, Comecon. Aths. Stb.).

Með því að notfæra sér deiluna reyna Sovétríkin að eitra tengsl Kína við lönd Suðaustur Asíu. Sovétríkin hafa hagsmuni sinnar eigin drottnunarstefnu fyrir augum.

Engin andkínversk öfl geta þó skaðað þá traustu vináttu sem ríkir milli kínverskra íbúa og alþýðu hvers lands né hin vinsamlegu tengsl milli Kína og landanna í Suðaustur Asíu.

Því meiri sem fyrirgangur Sovétríkjanna er þeim mun augljósar opinbera þau eðli sitt fyrir alþýðu Víetnams, alþýðu annarra landa í Suðaustur Asíu og alþýðu alls heimsins.

